# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

14. árg. WINNIPEG, DESEMBER 1899. Nr. 10.

## Til jólanna.

*Svo elskaði guð heiminn, að hann gaf sinn eingetinn son, til þess að hver, sem á hann trúir, ekki glatist, heldr hafi eilíft líf.*—Jóh. 3, 16.

Sálmr út af þessum boðskap eftir séra VALDEMAR BRIEM.

**(Lag: Sérhvert ljós um lífsins nótt.)**

1. Hvert er undr allra mest?
Óteljandi undr ljóma
ósegjandi leyndardóma ;
eitt þó ljómar allra bezt :
Ástin drottins unaðsblíða,
einkason er heimi gaf
til að stríða, til að líða,
til að deyðast mönnum af.

2. Hver er gleði mannkyns mest?
Unaðslindir ótal streyma
alla guðs um dýrðarheima ;
ein þó svalar allra bezt :
það, að guð oss soninn sendi
sekum manni' að veita grið.
Engin gleði guðs úr hendi
getr jafnazt þessa við.

3. Hver er elska allra mest,
er vér höfum af að segja?
Að hann vildi líða' og deyja
til þess vorn að bœta brest.
Enginn slíka elsku skilr;
óbotnandi náð er hans.
Afbrot vor um eilífð hylr
undrdjúpið kærleikans.

4. Hver er huggun hjartans mest?
Jesú náð að treysta' og trúa,
til vors guðs í auðmýkt snúa,
er oss hefir yfirsézt.
Hvílíkt undr! hvílík gleði!
hvílík elska, náð og líkn!
hvílík huggun grættu geði!
Guð minn, eg er frjáls og sýkn.

---

## Trúarsamtalsfundir

voru haldnir á ýmsum stöðum í Íslendingabyggðunum í Norðr-Dakota (Pembina county) og Minnesota (Lyon county og Lincoln) síðustu vikuna af Nóvember og fyrstu vikuna af Desember. Fyrst var fundr í kirkju Víkrsafnaðar á Mountain mánudaginn 27. Nóv., þá í kirkju Vídalínssafnaðar næsta dag—þriðjudaginn, þar næst í kirkju Hallson-safnaðar á miðvikudag, og svo á fimmtudaginn í sömu viku í kirkju Garðarsafnaðar. Á öllum þessum fjórum fundum var sama umtalsefnið: *aftrhvarfið*. Af prestum íslenzka kirkjufélagsins voru þessir fimm þar við staddir: séra Friðrik J. Bergmann og séra Jónas A. Sigurðsson — hinir þjónandi prestar þeirra safnaða — og norðan úr Manitoba séra Jón J. Clemens, séra Rúnólfr Marteinsson og séra Jón Bjarnason. Inngangsrœðuna í Víkrkirkju og Hallson-kirkju hélt séra Steingrímr Þorláksson, en séra Jón Bjarnason í Vídalínskirkju og Garðar-kirkju. Á fundinum í Vídalínskirkju var þó inngangsrœðan að eins fólgin í því, að séra J. Bj. las upp ágrip það af rœðu um aftrhvarfið

eftir danska prestinn Skovgaard-Petersen á stúdentafundinum í Raumsdal, sem ,,Verði ljós!" hefir nýlega komið með.— Í Minnesota-byggðinni íslenzku, prestakalli séra Björns B. Jónssonar, voru samtalsfundirnir einnig fjórir, nefnilega í kirkju Vestrheimssafnaðar mánudaginn 4. Desember, þriðjudaginn 5. Des. í hinni nývígðu kirkju safnaðarins í Lincoln county — sú kirkja var vígð næsta sunnudag á undan —, í St. Páls-kirkju í Minneota á miðvikudag 6. Des. að kvöldi, og í kirkjunni í Marshall á fimmtudagskvöld 7. Des. Umtalsefnin á þessum síðari fundum voru tvö: *samband kristinna manna* eða ,,samfélag heilagra" — í kirkjum Vestrheimssafnaðar og Lincoln-safnaðar — og *skírnarsáttmálinn* — í Minneota og Marshall. Auk séra Björns B. Jónssonar, hins þjónanda prests þessara safnaða, voru af prestum að eins þeir séra Friðrik J. Bergmann og séra Jón Bjarnason viðstaddir á þeim fundum. Og fluttu hinir aðkomnuprestar þar inngangsræður til skiftis: séra J. Bjarnason í kirkju Vestrheimssafnaðar og St. Pálskirkju, en séra Fr. J. Bergmann í kirkjunum í Lincoln county og Marshall.

Allir þessir samtalsfundir voru byrjaðir með sálmasöng og bœnagjörð. Prestarnir fluttu bœnir til skiftis á hinum ýmsu fundum. Fundahöldin stóðu yfir frá 2½ til 3 klukkustunda. Nokkuð misjafnt voru þau sótt af almenningi safnaðanna; — bezt í Vídalínskirkju, kirkjunni á Garðar og St. Páls kirkju í Minneota. Langfæst fólk var á fundinum í Vestrheimssöfnuði — lakir 20 manns. En sú var þar afsökun, að þann dag var kólguveðr. Bein hluttaka leikmanna í umrœðunum á fundum þessum var og talsvert misjöfn. Á hinum fámenna fundi í Vestrheimssöfnuði töluðu 4 úr hópi leikmanna. Á fundunum í Minnesota-söfnuðunum töluðu nálega eingöngu þeir leikmenn, sem í trúarskoðunum eru í fullkomnu samrœmi við trúarjátning kirkju vorrar. En á fundunum í söfnuðunum í Norðr-Dakota létu fremr þeir leikmenn til sín heyra, sem að meira eða minna leyti eru ósamþykkir kenning kirkjunnar. Œskilegast væri auðvitað, að allt, sem talað er á svona löguðum fundum, væri talað af trú, veikri eða sterkri trú á meginmál kristindóms-opinberunarinnar, eða að minnsta

kosti af trúarlöngun í sömu átt. En hinsvegar getr það orðið til góðs, ef rétt er með farið, að líka heyrist á fundum þessum annarlegar raddir; því við það kemr í ljós vöntunin og veikleikinn, sem fyrir er í safnaðarlífinu á þeim eða þeim staðnum, bending um það, hve fjarri því vér enn erum innan safnaða vorra, að allir sé komnir til fullkominnar einingar í trúnni; en jafnframt býðst þá og ágætt tækifæri til þess að vitna um sannleik kristindómsboðskaparins og kryfja til mergjar ýmsar af kenningum þeim, sem fara í gagnstæða átt.—Yfir höfuð má segja, að trúarsamtalsfundir þeir, sem hér er um að ræða, hafi heppnazt vel. Vonanda, að þeir verði kristindómslífinu á hinum ýmsu stöðum að meira eða minna leyti til stuðnings og glæðingar. Og ef nokkuð má ráða af hinum hjartanlegu viðtökum, sem aðkomnu prestarnir fengu við þetta tækifæri bæði í söfnuðunum í Norðr-Dakota og Minnesota, hvernig fólki gezt að þessum fundahöldum, þá má fullyrða, að það sé einkar vel.

## Kirkjuvígsla.

Sunnudaginn 3. Desember, fyrsta sunnudag í aðventu, vígði séra Jón Bjarnason, forseti kirkjufélagsins íslenzka, með aðstoð þeirra séra Friðriks J. Bergmanns og séra Björns B. Jónssonar kirkju safnaðarins í Lincoln county í Minnesota. Vígsluathöfnin fór fram samkvæmt kirkjuvígsluformi því, sem endr fyrir löngu er prentað í „Sam." II, 11 (Jan. 1888). Og hefir ávallt eftir því formi verið farið, þegar kirkjur tilheyrandi söfnuðum kirkjufélags vors hafa verið vígðar. Það er mjög fagrt og hátíðlegt. Séra Jón Bjarnason prédikaði og við það tækifæri og lagði út af Lúk. 14, 27—30. Talaði hann um köllun þá, sem allir kristnir menn hafa fengið af drottni til þess að uppbyggja guðs hús í tvöföldum skilningi, —guðs hús í sjálfum sér og guðs hús félagslega í söfnuðinum —, og sérstaklega um það, hvers þeir allir verða að gæta, sem með blessunarríkum árangri eiga að geta unnið að uppbygging guðs húss í hinum síðar nefnda skilningi þess orðs.—Nokkur hópr af söfnuðinum var til altaris við guðsþjónustu þessa,

sem eins og við var að búast var all-fjölmenn, en hefði þó orðið enn fjölmennari vafalaust, hefði ekki verið harðviðri þennan dag, þvert á móti því, sem verið hafði langa-lengi á undan og aftr varð tveim dögum síðar.

Hin nývígða kirkja er mjög prýðilegt guðshús. Hún stendr sem næst miðbiki Íslendinga-byggðarinnar í Lincoln county, við hliðina á grafreit safnaðarins, á landi hr. Odds Árnasonar. Aðalhús kirkjunnar er 50 feta langt og 32 feta breitt. En auk þess er forkirkja 14 x 14 fet að stœrð. Og turn upp af forkirkjunni 87 feta hár. Veggjahæðin er 18 fet. Gluggar eru fjórir á hvorri hlið og tveir á framstafni, háir, í gotneskum stýl. Einn stór kringlóttr gluggi er í turninum. Kirkjan er kölkuð innan, með gotneskri hvelfing. Fyrir stafni er pallr all-hár, sem gengr bogadreginn fram í kirkjuna. Altari þar fyrir miðju og grátur umhverfis. Til annarrar handar prédikunarstóll (lesborð), en sæti söngflokksins ásamt organi hinsvegar. —Kirkjubyggingin sjálf hefir kostað rúml. $2,200, en áhöld og prýði innan kirkju um $500. Alls $2,700 til $2,800. —Kirkjan er að mestu skuldlaus. —Mikinn dugnað hefir söfnuðrinn sýnt við kirkjubygging þessa. Kirkjan er sannarleg sveitarprýði.

Söfnuðrinn íslenzki í Lincoln county gekk í kirkjufélag vort á ársþingi þess 1895. Séra Björn B. Jónsson hefir verið prestr safnaðarins síðan á árinu 1894, en séra N. Steingrímr Þorláksson þar á undan frá því hann prestvígðist sumarið 1887.

Væntanlega birtist í ,,Sameiningunni" mynd af hinni nývígðu kirkju safnaðarins í Lincoln county áðr en margir mánuðir eru liðnir. Því miðr gat það ekki orðið nú, fyrir þá sök, að enn hefir engin mynd verið af henni tekin.

---

Vígðar kirkjur tilheyrandi söfnuðum ísl. kirkjufélagsins eru nú 15 að tölu: Fyrsta lúterska kirkja í Winnipeg (v. 1887), kirkja Víkrsafnaðar á Mountain (v. 1888), kirkjan í Pembina (v. 1889), kirkja Garðar-safnaðar (v. 1892), kirkjan í Brandon (v. 1893), kirkjan í Selkirk, hin gamla, sem nú er partr af nýju kirkjunni (v. 1893, —nýja kirkjan þar enn óvígð), kirkja Vídalínssafnaðar (v. 1894), kirkja Argyle-safn-

aðanna (v. 1896), kirkja þingvallasafnaðar á Eyford (v. 1896), St. Páls-kirkja í Minneota (v. 1897), kirkja Vestrheimssafnaðar (v. 1897), kirkjan í Marshall (v. 1897), kirkja Hallsonsafnaðar (v. 1899), kirkja Pétrssafnaðar (v. 1899), og kirkjan í Lincoln county (v. 1899).

## Frá Íslandi.

**Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.**

### VI.

Frá Akreyri var eg rúman sólarhring heim til foreldra og systkina minna, er búa í Húnavatnssýslu í grennd við Blönduóss-kaupstað. Skipið, sem eg var með, var nú orðið talsvert á eftir áætlan, þó ágætlega viðraði og ekki væri landshöfðingi með til að hefta för þess, eins og marga mun reka minni til um blaða-deilu út af því. En nú beið skip þetta iðjulaust á Akreyri nálægt sólarhring til að bíða hentugleika annars valdmeira landshöfðingja, Jóns Vídalíns, sem lætr blöð og blaðaskraffinna alla tala eða þegja eftir vild, —og þá eðlilega póstskip landstjórnarinnar koma og fara samkvæmt eigin fyrirmælum, sendir þau jafnvel inn á hafnir, sem ekki eru á ferðaáætlan, eins og til Vopnafjarðar í þetta sinn. Frjálslyndið íslenzka er stundum einkennilegt.

En ljúfar endrminningar frá austr- og norðrlandi, og þá ekki sízt viðtökur og ljóð séra Mattíasar, er hann las mér og mér finnast sí-ung og jafn-ágæt, fylgdu mér á veg. Séra M. kvaddi mig síðastr manna með föðurlegum kærleika. Ljóðin hans héldu vöku fyrir mér í landi, fylgdu mér í rúmið og svæfðu mig loks á skipsfjöl. — Ekki hefir íslenzka kirkjan og kennimannastéttin lagt svo lítinn skerf til skáldskapar og annarra bókmennta frá öndverðu til síðustu ára, að það ætti að gleymast, er óvinir hennar álasa henni. Og augljós verðr munrinn, þegar verk margra kirkjunnar manna frá söguöldinni og Sæmundi fróða til Mattíasar og Valdemars er borið saman við afrek sumra yngri „vandræða-skáldanna", sem hæst láta nú gegn trú og kirkju, —sem títt er um falsnótur, er hæst láta og síðast þagna.

Svo var það, að meðan nokkrir samferðamenn mínir sjáanlega tignuðu helzt eitt útlent og suðrœnt goð, voru góðskáldin íslenzku mínir förunautar og hálfgjörðir dýrðlingar. Maðr getr á slíku ferðalagi, með þetta andlega föruneyti, þegar andinn hrífr mann ,,upp á háfjalla tind" freistazt til að trúa því, að lífið þar heima líkist meira skáldskap en nokkru öðru. Og það er að líkindum ein ástœðan þess, hve mörg og góð skáld Ísland hefir alið, — og þá, ef til vill, eins hins, hve ónýtt og óhagsýnt, verklega dreymanda og andlega deilugjarnt, þetta sama skilningsgóða og skáldmælta fólk getr oft orðið í félagslífinu og framkvæmdunum.

Á þessum síðasta áfanga ,,*heim*" vaknaði eg ekki fyrr en inni á Skagafirði, skammt frá útlegðarstað hins gáfaða og gæfusnauða skálds Grettis, — Drangey. Hinir ljótu fuglaflekar hjá eynni vöktu í huga mér hryggðarsögu útlagans og ýmsar aðrar náskyldar sorgarsögur. Eg vildi óska, að einhverjum ,,dýravin" tœkist að koma í veg fyrir veiðiaðferðina, sem eg nefndi. Og það ætti að vinnast, því það er vafamál, hvort Ísland á nú færri dýravini en mannvini, ef dœmt skal eftir löggjöf og meðferð ýmsra þurfamanna og sjúklinga, t. d. vitskertra. Ekkert kristið land, með dálítil fjárráð og framfara-viðleitni, myndi fara eins að og þar er gjört, þó það láti illa í eyrum að segja slíkt opinberlega.

Það þarf að ítrekast og segjast upphátt, sem gott fólk fólk finnr til og talar um sín á meðal, hvar sem Íslendingar búa, að það sœmir illa kristnu landi og lýð allt sveitastjórnarþrasið, öll málaferlin og Pílatusar-réttvísin, sem þrávalt kemr fram út af því einu, að einhver verðr efnalega ósjálfbjarga. Stundum eru sjálfir prestarnir, sem sveitaoddvitar og leiðtogar, dregnir, án efa oft hálf-nauðugir, inn í ókristilegar deilur og málaferli. Eg játa, að fátœkramálin eru vandamál í landi fátœktarinnar. En það er kristindóms-fátœkt eða kærleiks-fátœkt, sem stundum getr orðið tilfinnanlegast í þjóðfélaginu, og ekki sízt gagnvart hinum snauða. Eg minnist hér tveggja sveitarfélaga, stór-myndarlegra, er deildu um eina stúlku, sem þau óttuðust að yrði mannaþurfi. Þess vegna mátti enginn ráða hana í vist, ekki hýsa hana né hjálpa henni

í þeim tveimr sveitum, þar sem hún hafði alið allan aldr sinn. Og rúm, sem hún átti, var svo flutt í þriðja sveitarfélag, í því skyni að verjast þannig sveitfestu.

Eg er hér ekki að tala um lagahliðina, heldr hve ókristilegt og miskunnarlítið annað eins er. Og eins er hitt varhugavert, að telja hjálparþurfann í rauninni fyrir það eitt óknyttamanninum óœðri og svifta hann fátœktar vegna flestum mannréttindum, — og það þar sem allir eru álíka snauðir. Það er eitthvað í áttina til þess, að grípa fyrir kverkar sínum samþjóni, unz hann hefir lokið skuld sinni.

Vafalaust hygg eg, að það myndi til muna greiða úr fátækra-málum Íslands, ef sýslufélögin í stað sveitafélaganna önnuðust hina snauðu, líkt og tíðkast hér í landi.

Því miðr voru það ekki Íslendingar, heldr útlent brœðrafélag, er loks reisti spítala fyrir líkþráa menn. En vitskertir menn eiga þar enn ekkert hæli. Og það mun þykja goðgá næst — næst því að kristið þjóðfélag styrki ofr lítið endrskoðan biblíuþýðingarinnar —, ef til þess er ætlazt, að landsmenn, fyrir landsfé, reisi slíkar líknarstofnanir. „Fátœktin" er svo mikil, að slíkt þykir óhœfa, þó það vitanlega ætti að vera kostnaðarminna að annast sjúklingana og aumingjana á þann hátt sameiginlega, auk þess, hve mjög það er mannúðlegra og kristilegra.

En aftr hefir verið opinberlega farið fram á það, að landssjóðr komi á fót rakarabúð og slátrhúsi fyrir höfuðstaðinn!

Eitt af því marga, er vér sem þjóð þurfum að læra, er að vinna þjóðinni og gjöra gott sem *einstaklingar*, — hinir kristnu einstaklingar, sem það geta, að leggja á sig persónulega til framkvæmdar líknarskyldunni, án þess að bíða ávallt eftir þingssamþykktum og lögum. Öllum Íslendingum ætti að vera orðið það full-ljóst, að það dugir ekki að búa í blöðunum — eins og framfaramenn og rithöfundar hafa gjört, — né framkvæma allt á þingum og launa og líkna að eins af landssjóði.

En þessar auka-hugleiðingar voru nú allar útlaganum Gretti og eyðiskerinu Drangey að kenna. Hvorttveggja er,

finnst mér, fulltrúi fyrir svo margt meðal vor Íslendinganna enn í dag. —

## Missíónarferð um Nýja-Ísland.

Eftir séra Rúnólf Marteinsson.

Miðvikudaginn 25. Okt. lagði eg á stað frá Winnipeg áleiðis til Selkirk. þaðan fór eg daginn eftir með gufubátnum ,,Rocket" áleiðis til Hnausa í Breiðuvík í Nýja Íslandi, og kom eg þangað daginn eftir (föstud.) laust fyrir hádegi. Fór eg þegar heim til Björns Skaftasonar, sem býr þar skammt frá verzlunarbúð Sigurðssona við Hnausapósthús. Að skömmum tíma liðnum fylgdi hann mér heim til foreldra minna, sem búa þar nálægt tveim mílum fyrir norðan. Sunnudaginn næsta gat eg hvergi haft guðsþjónustu; en undir eins upp úr þeirri helgi fór eg norðr í Ísafoldarbyggð, sem liggr norðr með Winnipeg-vatni frá Íslendingafljóti. Bjarni Marteinsson, bróðir minn, fylgdi mér á báti þangað norðr frá Lundi við Íslendingafljót. Komum við fyrst til Pétrs Bjarnasonar, sem er póstafgreiðslumaður á Ísafoldarpósthúsi; þaðan fórum við norðr til Jóns Jónssonar, er býr nyrzt af Íslendingum á því svæði. Guðsþjónustu hafði eg í þessari byggð hjá Birni Bjarnarsyni í Bjarnarstaðahlíð, miðvikudaginn í sömu vikunni. því miðr gátu fáir sótt þessa guðsþjónustu, en þar var ástœða fyrir. Rétt áðr kom vatnsflóð mikið í byggðinni, og nóttina áðr kom talsvert frost, svo illt var að komast á báti og nær ómögulegt að komast landveg sumsstaðar vegna flóðanna. Í nafni þeirra, sem sóttu guðsþjónustuna, bar Pétr Bjarnason fram þakklæti til kirkjufélagsins fyrir þá velvild, sem það sýndi með því að senda þeim mann í slíkum tilgangi.

það, sem eftir var vikunnar, var eg að heimsœkja þá, sem eg gat, af bœndum í Breiðuvíkinni. Á laugardaginn jarðsetti eg í grafreit Breiðuvíkr konu Jóns Frímanns Kristjánssonar á Akravöllum. Hún hafði lengi þjázt af tæring og skildi nú eftir sig mann og mörg börn, er hörmuðu sárt við þenna mikla missi sinn.

Næsta sunnudag, kl. 11 árdegis, var haldin guðsþjónusta í Breiðuvík í hinu nýbyggða skólahúsi að Hnausum. Það var í fyrsta skifti, sem nokkrir höfðu komið saman í því, og bað skólanefndin mig að minnast á húsið og tilgang þess við þetta tœkifœri. Það gjörði eg. Guðsþjónustan var vel sótt og hafði eg sérstaka ánœgju af að prédika guðs orð í þeirri sveit, sem eg einu sinni átti heima í og sem eg tel enn hið helzta heimili mitt, þar sem foreldrar mínir búa þar. Samskot í kirkjufélagssjóð voru tekin við þessa guðsþjónustu, $4,50.— Kl. 4 síðdegis sama dag hafði eg guðsþjónustu í skólahúsi Geysisbyggðar—upp með Íslendingafljóti. Þar var troðfullt hús, þegar eg kom. Næstu tvær nætr gisti eg hjá Sigurði Nordal, er einnig lánaði mér hest til reiðar um alla byggðina. Og hafði eg hina mestu skemmtan af að ríða um hina góðu vegi og sjá hina fögru byggð upp með fljótinu. Bæði í Breiðuvíkinni og Geysisbyggðinni hitti eg marga fornkunningja mína, og hafði eg ekki sízt skemmtan af því að hitta ýmsa gamla lærisveina mína frá þeim tíma, er eg var kennari í þessum byggðum.

Í Geysisbyggðinni er haldið uppi sunnudagsskóla af skólakennaranum þar, J. Magnúsi Bjarnasyni, samt fjórum konum, er allar starfa af mikilli alúð að þeim málum, en þær sjálfar þakka Magnúsi Bjarnasyni það mest, að hann komst á fót.

Seinni hluta vikunnar hélt eg suðr í Árnesbyggð, og fylgdi Björn Skaftason mér þangað, á báti að mestu leyti, og hafði hann yfir höfuð talsvert fyrir mér á þessari ferð minni.

Fram að næstu helgi heimsótti eg í Árnesbyggðinni það, sem eg gat, og gisti eina nótt hjá Stefáni Sigurðssyni á Víðivöllum og tvær nætr hjá Gísla Jónssyni á Laufhóli. Næsta sunnudag, 12. Nóvember, prédikaði eg á tveim stöðum í byggðinni, kl. 11 árd. í Árnesi og kl. 4 síðd. í syðra skólahúsi Árnes-skólahéraðs. Fjölmennt var við fyrri guðsþjónustuna, en fátt við hina seinni. Eftir guðsþjónustuna fór eg heim til Jóhannesar Magnússonar og keyrði hann mig daginn eftir að Gimli. Hélt eg svo þar til að miklu leyti það, sem eftir var þessarar veru minnar í Nýja Íslandi, og hafði eg aðsetr mitt hjá Þorbergi Fjeldsteð; en heimsótti fólk á Gimli

og annarsstaðar í byggðinni það, sem tíminn leyfði. Þegar á leið vikuna, fór eg suðr í syðri hluta Víðinesbyggðarinnar og og dvaldi hjá Benedikt Arasyni í Kjalvík, en Tryggvi sonr hans reið með mér um byggðina og heim til manna.

Næsta sunnudag, 19. Nóvember, prédikaði eg í tveim stöðum í byggðinni: kl. 11 árd. í Kjarna-skólahúsi, fyrir sunnan Gimli, en kl. 3 síðd. á Gimli í kirkjubyggingunni, sem byrjað var að reisa þar áðr en hin mikla eyðilegging geysaði yfir hin andlegu málefni NýjaÍslands. Enn er þessi kirkjubygging ekkert nema skrokkrinn; því ekkert hefir verið gjört við hana síðan hið mikla fráhvarf kom fyrir. En hún er óumrœðilega sláandi vottr þess, sem fyrir hefir komið, og lexía, sem Gimli-menn og Ný-Íslendingar almennt ætti að skilja.

Dálítil kristileg starfsemi á sér samt stað á Gimli. Tvö kvenfélög eru þar, sem bæði vilja vinna eitthvað í kristilega átt. Sunnudagsskóli er þar einnig, undir stjórn Mrs. Þorbjargar Paulson.

Þennan sunnudag, sem guðsþjónustan var haldin, hafði kirkjan verið undirbúin að svo miklu leyti, sem unnt var eftir því, sem á stóð. Þar var einnig æfðr söngflokkr undir stjórn Sigurðar Thórarensens, er ásamt organ-spili hjálpaði mjög mikið til að gjöra guðsþjónustuna hátíðlega. Á þriðja hundrað manns, á að gizka, var viðstatt, og var það mjög ánœgjulegt, hve vel var sótt samkoman þrátt fyrir vonda vegi rétt þá.

Næsta miðvikudag, 22. Nóv., lagði eg á stað úr byggðinni, fór keyrandi til næstu járnbrautarstöðva, Teulon, og þaðan með eimlestinni til Winnipeg daginn eftir.

Talsverðr vaknandi áhugi er víða í Nýja Íslandi og sérstaklega á Gimli fyrir því að byrja aftr á kristilegu safnaðarstarfi. En guð þarf að vera með í verkum, ef áhuginn á að verða nógu sterkr til framkvæmda.

Það er mikið og sorglegt tjón fyrir Íslendinga, sem eru landlausir eða hafa á seinni árum verið að dreifast hingað og þangað um alla heimsálfuna, þar sem þeir hljóta að tapast úr voru þjóðerni, að því hefir ekki verið sinnt, að taka landið í Nýja Íslandi, sem sjálfsagt á eftir að verða blómleg byggð, er svo stór, að þar getr lengi þróazt íslenzkr félagsskapr, og

hefði þó getað verið miklu stærri. Að landið er gott í augum annarra sést af því, að aðrir þjóðflokkar eru nú að flykkjast þangað í stórum hópum, svo að nú er mér sagt, að varla sé eitt einasta ótekið land í allri Víðinesbyggðinni. Og ef landlausir Íslendingar víðsvegar ekki vakna til meðvitundar um, hverju er fram að fara, lítr helzt út fyrir, að bráðum verði allt ónumið land í Nýja Ísland farið.

Kristindómrinn þarf að glœðast í Nýja Íslandi eins og víðar meðal vors fólks. Eg bið guð vonarinnar, að veita mönnum kraft vonarinnar til að starfa að þeim málum í anda Jesú Krists og hans blessaða náðarnafni.

## Önnur missíónarferð.

Eftir séra Jón J. Clemens.

Hinn 26. Sept. lagði eg á stað í missíónarferð, og var eg í burt að heiman tæpar þrjár vikur. Í þessari ferð heimsótti eg landa mína í Þingvallanýlendu, Lögbergsnýl., Vatnsdalsnýl., Laufássbyggð og í Brandon. Eg flutti níu messur og skírði þrjú börn.

Eg kom til Churchbridge, Assa., sem er 321 mílu frá Baldr, með járnbraut að kvöldi 27. Sept. Fyrir norðan Churchbridge 4—10 mílur liggja Lögbergs og Þingvallanýlendurnar. Í þeim byggðum búa 30 ísl. fjölskyldur (177 sálir). Stunda landar þar nærri eingöngu kvikfjárrœkt, og láta þeir vel af líðan sinni.

Söfnuðinum í Þingvallanýlendu tilheyra 25 fjölskyldur (158 sálir). Í báðum byggðunum flutti eg fjórar messur, og voru þær sóttar af öllum byggðarbúum. Til altaris tók eg 40 manns og skírði eitt barn. Séra Oddr V. Gíslason hafði tekið fólk til altaris í vor; því voru ekki fleiri til altaris í þetta sinn.

Sunnudagsskóla hefir verið haldið uppi í byggðinni í sumar. Hefir Björn skólakennari Sigvaldason staðið fyrir honum. Skólinn hefir verið vel sóttr. Kennslan hefir farið fram á íslenzku og ensku.

Safnaðarfundr var haldinn í félagshúsinu síðasta daginn,

sem eg var í byggðinni, til að rœða um prestsþjónustumál safnaðarins. Varð niðrstaða fundarins sú: að senda köllunarbréf til séra Rúnólfs Marteinssonar, til að biðja hann að þjóna söfnuðinum 6 mánaða tíma á næsta ári, gegn $300 launum. Þessi upphæð kom inn í loforðum á fundinum. Eiga íbúar Þingvallanýl. og Lögbergsnýl. mikinn heiðr skilið fyrir þann mikla áhuga, sem þeir hafa sýnt í safnaðar- og kirkjufélagsmálum, þrátt fyrir þá ófullkomnu þjónustu, sem þeir hafa haft frá kirkjufélagsins hálfu hingað til.

Það er álit mitt, að óvíða sé meiri þörf á þjónanda presti heldr en í Norðvestrlandinu fram með M. & N. W. brautinni. Í kring um norðvestr-enda brautarinnar eru um 50 ísl. fjölskyldur, fyrir utan þær 16 ísl. fjölskyldur, sem búa í Vatnsdalsbyggðinni, sem er 30 mílur fyrir sunnan Churchbridge. Í Saltcoats eru 3 fjölsk. (16 sálir), í Yorkton 5 fjölsk. (25 sálir); fyrir vestan Yorkton, við Foam og Fishing-vötnin, eru 5 eða 6 ísl. fjölsk. Svo er öll Manitobavatns-byggðin fyrir norðan Westbourne. Þetta er að vísu mjög stórt verksvið fyrir einn prest, en því stœrra, sem verksviðið er, því meiri er einnig þörfin á að fá fastan þjónanda prest á þessu svæði.

Í Þingvalla-nýlendu dvaldi eg rúman vikutíma. Þaðan var eg keyrðr suðr til Vatnsdals-nýlendu í Qu'Appelle-dalnum. Þar er fögr sveit og frjósöm, en kirkjulegi jarðvegrinn þar er enn nálega órœktaðr. Eg flutti þar eina messu, og var hún vel sótt. Fundr var haldinn í félagshúsi byggðarinnar eftir messuna, og var það afráðið, að biðja séra Rúnólf að koma þangað suðr, ef hann tœki köllun safnaðarins í Þingvalla-nýl., og flytja þar messu. Byggðarmenn voru ekki til þess búnir að ráða til sín prest fyrir neinn ákveðinn tíma, fyrr en þeir hefði séð prestinn og kynnzt honum. Frá Qu'Appelle-dalnum var eg keyrðr suðr til Moosomin, 30 mílur. Þaðan fór eg hinn 7. Okt. til Brandon.

Í kirkju Brandon-safnaðar flutti eg tvær messur hinn 8. og tók 18 manns til altaris. Landar eru heldr að fækka í Brandon. Margir hafa flutt þaðan á síðastl. ári. Samt er víst safnaðarlífið óvíða í öllu betra horfi innan prestlausra safnaða heldr en þar.

Frá Brandon fór eg til Reston. Tíu til fimmtán mílur þar fyrir vestan er Laufásbyggðin. Þar flutti eg messu hinn 11., á heimili Jóns Abrahamssonar, og skírði eitt barn. Eftir messu var prestsþjónustumál safnaðarins rœtt. Var framkvæmdum í því máli frestað þar til safnaðarfundr verðr haldinn. En miklar líkur eru til þess, að söfnuðrinn biðji kirkjufélagið að veita sér mánaðar prestsþjónustu á komanda ári, gegn ákveðnum launum.

Í Laufásbyggðinni hafa lest arsamkomur verið haldnar annan hvern sunnudag, og sunnudagsskóli þá sunnudaga, sem ekki hefir verið lesið. — Í Brandon eru guðsþjónustur og sunnudagsskóli á hverjum sunnudegi.

Hinn 12. Okt. kom eg heim aftr úr ferðinni. Mér var tekið vel allsstaðar þar sem eg kom.



Í Ágústmánuði síðastliðnum var upp til sveita í Norvegi, norðan fjalls, í Raumsdal, haldið stór-merkilegt trúmálaþing —norrœnn kristilegr stúdentafundr. Og voru þar saman komnir 415 svo kallaðir „stúdentar", þ. e.: yngri og eldri menn, er notið hafa œðri menntunar; flestallir frá Norðrlöndum, þar á meðal einn Íslendingr: séra Jón Helgason, prestaskólakennari. Af annarra þjóða mönnum voru þar að eins 3 Ameríkumenn og 1 Þjóðverji. Þetta var fimmta og lang-mesta samkoma þeirrar tegundar, sem haldin hefir verið á Norðrlöndum. Meðal „stúdentanna" voru ýmsir hinna fremstu lærdómsmanna og spekinga á Norðrlöndum, eins og t. a. m. Friðrik Petersen og S. Michelet, háskólakennarar í Kristjaníu; M. Pfannenstill, háskólakennari í Lundi; F. C. Lundin, rektor í Uppsölum; Gustav Jensen, hinn frægi norski prestr; Alfred Schack, ágætr danskr prestr og rithöfundr, og Skovgaard-Petersen, annar mjög merkr, en ungr prestr í Danmörk. Og sízt að gleyma Kristjaníu-prestinum Kr. M. Eckhoff, sem talinn er hinn eiginlegi upphafsmaðr þessara kristilegu stúdentafunda á Norðrlöndum. Þetta var trúarsamtalsfundr í ákaflega stórum stýl, og stóð hann yfir í 8 daga. Umtalsefni voru þessi hin helztu: kristindómr og siðferðisleg

menning, kristniboð og þjóðmenning, kristindómr og breytiþróunarkenningin, aftrverkandi áhrif kristniboðsstarfsins í heiðingjalöndunum, aftrhvarfs-nauðsynin, kristileg trúarvissa, trúarlegr eldmóðr, kristilegt líferni, guðsdýrkan í anda og sannleika, kristniboðsstarfsemi nútíðarinnar (meðal heiðingja og Gyðinga). Í samanburði við guðfræðinga tóku merkilega margir þátt í fundarhaldinu og umræðunum, sem ekki höfðu lagt stund á guðfræði.

Félagsskapr sá, sem stendr á bak við þessa kristilegu stúdenta-fundi, hefir mjög mikla og blessunarríka þýðing fyrir kirkju og kristindóm. Almenningr fær hér meðal annars áþreifanlega sönnun fyrir því, að æðri menntan og lærdómr þurfi ekki endilega að útrýma trúnni á hinn guðlega boðskap heilagrar ritningar, heldr geti þetta tvennt mjög vel sameinazt. Og almenningr sér enn meira en það. Líka það, að kristindómrinn er einmitt nú óðum að verða ofan á í menntalífi þjóðanna.

Væntanlega verða fleiri Íslendingar á næsta almenna stúdentafundinum, sem haldinn verðr á Norðrlöndum, því á þessum fundi voru út af ræðu, sem séra Jón Helgason hélt þar, hafin fjársamskot nokkur, á 6. hundrað krónur, upp í ferðakostnað fátækra íslenzkra stúdenta, sem framvegis vildi sækja þessi fundahöld.



Í Nóvember-blaðinu af „Verði ljós!" er sálmr eftir séra Mattías Jokkumsson með fyrirsögninni: *Æðsta boðorðið í lögmálinu.* En í aðalefninu er þessi sálmr áðr kominn í sálmabókinni — nr. 18 —, að eins þar styttri og áhrifameiri. Fyrsta og síðasta vers sálmsins eins og hann birtist í blaðinu vantar í sálmabókinni. En aftr vantar í blaðinu annað vers hans eins og hann stendr í sálmabókinni. Og það vers er vafalaust einhver ágætasti partr sálmsins, — þetta vers:

„Og aldrei skilr önd mín betr,
að ertu guð cg faðir minn,
en þegar eftir villuvetr
mig vermir aftr faðmr þinn

og kærleiksljósið litla mitt
fær líf og yl við hjarta þitt."

Ef sálmrinn í þeirri mynd, sem hann hefir í blaðinu, er seinna til orðinn en sá, sem stendr í sálmabókinni, — ef þetta á frá hálfu höfundarins að vera bragarbót, þá liggr oss við að taka það aftr, sem vér sögðum í síðasta blaði ,,Sam.", að séra Mattíasi sé ekki neitt farið að förlast. En lang-líklegast er sú mynd sálmsins, sem stendr í sálmabókinni, ekki eldri, heldr einmitt yngri en sú, sem ,,Verði ljós!" kemr með.

---

— Hjá ritstjóra ,,Sam." fást nú íslenzkar biblíur og nýja testament frá brezka biblíufélaginu. Biblían kostar $1.45,nýja testamentið 60 cts.

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson*, 609 Ross Ave., er innköllunarmaðr ,,Sameiningarinnar" í Winnipeg.

---

Hr. *Magnús Pálsson*, 309½ Elgin Ave., sendir ,,Sam." út.

---

Hr. *Jón A. Blöndal*, 207 Pacific Ave., Winnipeg, er féhirðir ,,Sam."

---



---

,,SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega,12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.